*5 Fyrerheit þeira sm̄ Ordsins þienörum giöra gott*

sende. Huer hn̄ mædtekur Spamann i Spamans nafne/ sa fær Spamans laun/ Huer hn̄ medtekr Riettlaatan i Riettlaatz nafne/ sa fær Riettlaatz laun/ Og huer hañ giefur einum af þessum Vesalingum kalldan Vatzdryck at drecka i Lærisueins nafne/ Sañliga seigi eg ydr/ ad þ mun eigi olaunat vera.

## XI.

A

*1 Johañis sender til Chrisium*

*2 Huer ed Christus sie*

OG þ skiede er Jesus hafde lycktad þessar Bodaner til sinna tolf Lærisueina/ gieck hn̄ þadan at kieña og Predika i þra Borgum.

Og þa Johañes heyrde i Myrkuastofuñe verken Christi/ sende hn̄ tuo af sinū Lærisueinū z liet seigia honum/ Ertu sa sm̄ koma mun/ Eda eigum vier añars at bijda? Jesus suarade og sagde til þra: Fare þier og kuñgiörid Johañe aptur huad þier siait og heyrit/ Blinder sia/ Hallter ganga/ Lijkþraer hreinsast/ Daufer heyra/ Dauder vpprijsa/ z Fatækum verdr Euangelium bodat/ Og sæll er sa sm̄ eigi hneykslar sig a mier.

Eñ ad þeim burt geingnum/ hof Jesus at seigia til Folksins af Johañe/ Huad foru þier a Eydemørku at sia? Villdu þier sia Reyr af Vinde skeken? Eda huad foru þier vt at sia? Villdu þier sia mañ Miuk klæddan? Siaet: Þeir ed miukan klædnad hafa eru i Kongaña hwsum/ Eda huad foru þier vt at sia/? Villdu þier Spamañ sia? Eg seigi ydr fyrer sann þañ meire er enn nockur Spamañ/ Þuiad þesse er af huerī skrifad er/ Sia: Eg sende miñ Eingil fyrer þinu auglite/ sa er þiñ veg skal tilreida fyrer þier.

B

*3 Huer Johañis sie*

*Luc. 16. Mat. 17. Marci 9. Mal. 4.*

Sannliga seige eg ydr/ a medal þra sm̄ af Konum eru fædder/ er eigi añar vpp komen sa meire sie eñ Johañes Baptista. Eñ hn̄ s minstr er i Himnarijke er honum meire. Eñ i fra døgum Johañis Baptista allt til þess nu er komit/ þoler Himnarijke ofurefle/ og þr sm̄ ofurefle giøra hrema þ til sin. Þuiat aller Spameñ og Løgmalit spædu til Johañis/ Og ef þier viliet þ mætaka þa er hn̄ Elias/ sa er koma skal. Huer Eyru hefr ad heyra hn̄ heyre.

*4 Ordsins þyrerlitning Luc. 7.*

Eñ vid huad skal eg þessare Kynslod jafna? Lijk er hun þm Børnum sm̄ sætu a Torge/ huer ed kølludu til siña Lijka og søgdu: Vær høfum ydr i Pijpur blasit / og þier villdut eige danza/ Vær þuldum ydr vorar rauner z þier grietud eigi. Johañis er komen/ æt ei z drack eigi/ z þeir seigia hn̄ hafe Diøful. Mañsins Son er komen/ æt og drack/ z þr seigia/ Siait: Ofatzmañen og Vijnsuelgiaran vineñ Tollheimtumaña og Syndugra/ Og Speken hlytur so ad riettlætast lata af sinum Nidiū.

C

*5 Hefnd þra sem Gudz Ordit þyrerlijta*

Þa tok hn̄ at formæla Borgunum i huerium giørd voru flest hn̄s Kraptauerk/ og høfdu þo eigi betrad sig/ Ve þier Chorazin/ Ve þier Bethsaida/ Þuiad ef i Tyro og Sidon hefde giørst þau kraptauerk sm̄ i ydr hafa giørst/ hefde þeir fordum i Seck og Ösku Idran giørt. Eñ þo seige eg ydr ad Tyro og Sidon mun bæreligra vera a Doms deige helldr eñ ydr. Og þu Caphernaum sm̄ allt til Himins ert vpphafen/ mūt nidur þryckiast allt til Heluijtis/ Þuiat ef i Sodoma hefde þau kraptaverk giørst s i þier hafa giørd veret/ kañ va/ at þær hefde stadit allt til þessa dags/ Eñ þo seige eg ydr þ ad bæreligra mun vera Lande Sodoma a Domsdeigi/ eñ þier.

D

*6 Þackargiörd Christi þyrer opinberan Euangelij*

A þeim sama tijma andsuarade Jesus z sagde: Eg prijsa þig Fader Herra z Himens og Jardar/ ad þu dulder þetta fyrer Spekingum z Foruitringum/ og opinberader þ Smælingium. Ad sønnu Fader/ þuiat so var þ þeckt fyrer þier. Aller hluter eru mier ofurgiefner af minum Fødr/ og eingen kieñer Soneñ nema Faderen/ z eingeñ kieñer Fødureñ nema Sonureñ/ og huerium ed Sonuren vill þ opinbera.

*7 Eitt huggunar samt þyrerheit*

Komit til min aller þier sm̄ erfidit/ og þunga erut hladner/ eg mun endurnæra ydur/ Takit a ydr mitt Ok/ og lærit af mier/ þuiad eg em hoguær og af hiarta Lijtelætur/ z munu þier huijld siña Salum ydrum/ þuiat mitt Ok er sætt og miñ þunge er liettr.

## XII.

A

*1 Vm Þuottdags helganena Marc. 2. Luc. 6*

A þeim tijma gieck Jesus vm Kornsæde a Þuottdeigi/ og hañs Læresueinar voru Hungrader/ toku ad tina Axin af/ og ad eta. Eñ er Pharisei sau þ/ søgdu þeir til hn̄s/ Sia: Þiner Lærisueinar giøra huat þeim leyfist eigi a þuottdøgū at giøra. Eñ hn̄ sagde til þra/ Hafe þi' ei lesit huad David giørde/ nær hn̄/ og þa er mz honum voru hungrade? Huernen ed hn̄ gieck jnn i Gudz hus/ og æt þau fornunarbraud/ huer honum leyfdist eigi at eta/ nie helldr þm sm̄ med

honum

honum voru/nema einum saman Kiennemonnum. Eda hafe þier eigi lesit/ꝥ Kiennemennerner a Þuottdøgunum i Musterenu briota Þuottdagen/og eru þo an sakar? Enn eg seige ydr at sa er hier sm̄ Musterenu er meire. Eñ ef þier vissut huad ꝥ være(a Myskun hefe eg þocknan/z eigi a Offre)hefde þier alldrei saklausa fordæmt/Þui Mañsins son er Herra/einnen Þuottdagsins.

1 Reg. 21

Osee 6.

Og er hn̄ gieck burt þadan/kom hn̄ i þra samkundu hws/og sia: Ad madr var þar/sa er hafde visnada hønd. Og þeir spurdu hn̄ at z søgdu/Er eigi leyfeligt ad lækna a Þuottdøgum? so at þeir giætu aklagat hn̄/Eñ hn̄ sagde til þra/Huer madr er sa af ydr sm̄ hefer eirn Saud/z ef hn̄ fellur a Þuottdøgum i gryfiu/grijpr hn̄ eigi hn̄ og vppdregr? Hue myklu meir er maduren Saudnum betre? Fyrer þui leyfist a Þuottdøgum gott at giøra. Þa sagde hn̄ til mañsins/Riett vt hønd þina/Og hn̄ riette hana vt/og hun vard heil/sm̄ hin oñur.

2 Visen Hønd verdur heil

Eñ Pharisei geingu vt/og toku ad hafa radagiørder i mote honum/ huernen þeir mætt**B** honum hellst fyrerfara/Eñ er Jesus fornam ꝥ veik hn̄ þadan/honum fylgde z margt Folk epter/z þa alla læknade hn̄/ z bañade þeim at þeir giorde hn̄ opinskaran/ So ꝥ vppfylldist huad sagt er fyrer Esaiam Spamañ er so seiger. Siaet: Þion miñ huern eg vtualda/z miñ elskuligan/a huerium Sala min hefr þocknan/Yfer hn̄ mun eg anda miñ setia/z sa sk Heidnum Domen kuñgiøra. Eigi mū hn̄ kijfa nie kalla/z eigi mun nockur heyra hn̄s kall a strætum. Mariñ Reyr mū hn̄ eigi i sundurmylia/og riukande Hør eigi vtsløckua/þar til hañ vt drijfur Dom til Sigranar/og Heidner munu a hn̄s nafn vona.

Esaie 42.

Þa vard til hn̄s hafdr Diøfuloda madr/sa er blindur var z Mallaus/Og þañ Læknade hn̄/so ad hiñ Dumbe og blinde talade z sa/Allt Folkit ottadist og sagde/er þesse ei Sonr Dauidz? Eñ er Pharisei heyrdu ꝥ søgdu þeir/Eigi rekr þesse Diøfla vt/ nema fyrer Belzebub Diøfla høfdingia

3 Af Diøfulodū Blindum og Daufum mañe

Eñ Jesus fornam þra hugsaner z sagde til þra: Huert Rijke i sialfu sier sundurþykt mū eydast/z huer Borg edr hus sm̄ misþyck er i sialfre sier fær eigi stadit. Og ef Andskoten rekr Andskotan vt/þa er hn̄ sundurþyckr i mote sialfum sier/ Hunen fær hn̄s rijke þa stadit? Og ef eg vtrek Diøfla fyrer Belzebub/Fyrer huern verda þeir þa af ydrum Sonum vtrekner? Af þui verda þr ydrer Domendr. Eñ ef eg vtrek Diøfla mz Gudz Anda/þa er Gudzrijke til ydar komit.

4 Christur nidur þaggar Gudlastan Phariseorū

**C** Eda huernen fær nockur iñgeingit i Ofluges hws/z hn̄s Bordbunat i burt gripit/ nema hn̄ binde adr hiñ Ofluga/og ræne þa hn̄s hus? Huer hn̄ er eige mz mier sa er i mote mier/ Og huer eigi mz mier safnar/sa sundurdreifer. Fyrer þui seige eg ydr/Aull Synd z Lastan er ydr fyrs giefnar mønnū/eñ Løstun i mot Andanū fyregiefst eigi/Og huer hn̄ talar nockurt ord i mot Mañsins Syne/honum mun fyrergiefast/eñ huer ed talar nockurt ord i mote Heiløgum Anda/honum mun huorke fyrergiefast i þessum Heimi nie ødrum.

5 Synd i mote Heilögū Anda ofyrergiefaulig

Añathuert setiet gott Trie/og mun Auøxturen godr/elligar setied vondt Trie z mun Auøxturen vondr. Af Auextenum þeckist Tried. Þier Nødru kyn/Huernen meigi þier gott mæla/ amzan þier erut sialfer vonder? Þuiat Muñurē mæler af Nægd hiartās. Godr madr fram flytur gott af godum siod sins hiarta/eñ vondr madr af vondum Siod sins hiarta framflytur vondt. Eñ eg seigi ydr/ af hueriu þui fafeingu orde ꝥ sm̄ meñerner tala munu þeir reikningskap giøra a Dōzdeigi/Þuiat af þinū ordū mūtu riettlætast/z af þinū ordū mūtu fordæmast.

Luc. 6

Þa suørdu honum nockrer vt af Skriftlærdum z Phariseis z søgdu/Meistare vier villdū Teikn af þier sia/Hn̄ suarade z sagde til þra/Þetta vonda z Horunarslekte leitar Teikns/ z þui mū ei Teikn giefast nema teikn Jona Spamās. Þuiat so s Jonas var i Kuide Hualsins þria daga z þriar Nætur/so mun Mañsins Son vera i Fylsne Jardar þria Daga og þriar **D** Nætr. Meñ Niniue Borgar munu vpprijsa a efsta Dome mz þessare Kynslod/z munu hana fordæma/þuiat þr giørdu Idran epter predikan Jonas/ Og sia: Hier er meire eñ Jonas. Drottningen af Sudre mun vpprijsa a efsta Dome/mz þessare Kynslod/ z mun hana fordæma/Þuiat hun kom af Endimørkum Jardar at heyra Speke Salomonis/Og Sia: Hier er meire eñ Salomō.

6 Christus straffar þoruitni Phariseorum sm̄ girnast Teikn

Eñ nær Ohreiñ Ande fer vt af mañenum/ reikar hn̄ vm þurlende/leitande hwillldar z finnr eigi/Þa seiger hn̄/Aptr mū eg snua i mitt hws/þadan eg for vt/Og nær hn̄ kiemr/finnr hañ ꝥ tomt/ Soplimum hreinsat z fægat/Þa fer hn̄ z tekr sio adra Anda mz sier/ þr ed verre eru eñ sialfur hn̄/ z nær þeir eru iñkōner byggia þr þar/ Og verdr þa þess mans hid sijdara verra þinu fyrra/So mun z skie þessa vonda Kynslod.

7 Spadomr vt af þorherdslu Gydinga



Sem

6 Huggun/at truader sie Brœdꝛ Systꝛ og Modꝛ er Christi

Sem hn̄ var eñ þetta at tala til Folksins/Sia: At Moder hans ⁊ Brœdꝛ stodu þar fyrer vtan/og soktu at tala vid hn̄/eñ nockꝛ sagde til hn̄s. Sia: At Moder þin ⁊ Brœdꝛ þiner stan da vte ⁊ vilia þig fiña/Hn̄ suarade ⁊ sagde til þess sm̄ til hn̄s talade/Huer er min Moder/og huerier eru miner Brœdꝛ? Og hn̄ riette vt sina Hønd yfer sina Lœresueina og sagde/Siaet: mina Modꝛ/⁊ mina Brœdꝛ. Þuiat huer hn̄ giører vilia mins Fødurs þess a Himnum er/ sa same er miñ Broder Systꝛ og Moder.

## XIII.

Marc. 4. Luc. 8. 1 Epterlyking vt af Kornsædarenum

A

A Þeim sama Deigi/geck Jesus vt af Hwsenu ⁊ sat vid Sioen/⁊ margt Folk safnadist at honū/so hn̄ stie a Skip/⁊ sette sig/⁊ allt Folkit stod i Fiøruñe/⁊ hn̄ talade margt til þra i Epterlykigum ⁊ sagde. Sa er sæde gieck vt at sæ sinu Sæde/og þa hn̄ sæde fiell sumt vid veigen/⁊ Fuglar komu ⁊ ætu þad. Eñ sumt fiell i grytta Jørd huar þ hafde eigi mykla Jørd/og rañ fliotliga vpp þuiat þ hafde eigi Jardardypt/eñ sm̄ Solen rañ vpp skrældist þ/og af þui at þ hafde eigi rot neina þa Visnade þ/ Eñ sūt fiell a millum Þyrna/⁊ Þyrnarner spruttu vpp ⁊ kiæfdu þ/Eñ sumt fiell i goda Jørd/⁊ færde Auøxt/sumt hundrad falldan sumt sextugfalldan/sumt þritugfalldan. Huer Eyru hefꝛ ad heyra sa heyre.

Og Lœrisueinarner geingu til hn̄s ⁊ søgdu/Fyrer hui talar þu til þra i Epterlykingum? Hn̄ suarade ⁊ sagde/Ydꝛ er vnt ad vita leynda Doma Himnarykis/eñ þm er þ eigi veitt/Þui huer hn̄ hefꝛ honum mun giefast so hn̄ gnog hafe/Eñ sa er eigi hefur/af hm̄ mun ⁊ takast þ hn̄ hefur. Fyrer þui þa tala eg til þra i Epterlykingū/þt mz siaanda augū/sia þr eigi/⁊ mz heyranda Eyrum heyra þeir eigi/ þuiat þr skilia þ eigi/ Og a þeim vppfyllist Spadomur Esaia/er hn̄ seiger: Mz Eyrunū mūu þr heyra/⁊ þo munu þier þ ei skilia/⁊ mz siaande augum munu þier sia ⁊ eigi skyniat gieta/Þuiat þessa Folks Hiarta er forhardnat/⁊ þra Eyru eru þungheyrd/⁊ Augu þra samanluckt/so at þr eigi mz Augum siae/⁊ Eyrum heyre/nie mz Hiartanu skilie/til at leidrietta sig/so at eg Lœkne þa.

Mar. 25.

2 Huar fyrer Christur talar i Epterlykingum

B

Eñ sæl eru ydr augu/ þ þau sia/⁊ ydr Eyru/ þ þau heyra. Sañliga seigi eg ydꝛ at marger Spameñ ⁊ Riettlæter fystust at sia/huad þier siait/ ⁊ hafa þ eigi sied/og at heyra huad þier heyrit/ ⁊ hafa þ eigi heyrt. Af þui heyrit þessa Epterlyking Sædarans. Þa er nockꝛ heyrer ordit Rykesins/og vnderstendꝛ eigi/kemꝛ hiñ vonde/⁊ hrifsar burt huad sæd er i hanns hiarta/Þetta er þ huad vid veigen er sæd. Eñ sa s̄ i grytta Jørd er sædꝛ er sa huer ordit heyrer/og fliotliga af Fagnade mztekꝛ þ/eñ hn̄ hefꝛ eigi rot i sier/helldꝛ er hn̄ frahuerfur/nær ed hrellingar og ofsokner hefiast fyrer ordsins saker/ skamfyllist hn̄ jafnskiott. Eñ hn̄ s̄ a millū Þyrna er sædꝛ/er hn̄ sm̄ heyrer ordit/og ahyggia þessarar Veralldar ⁊ flatskapꝛ Fiedrættar kefur ordit/⁊ verdꝛ so æn Auaxtar. Eñ sa i goda Jørd er sædꝛ/er hn̄ sm̄ heyrer ordit ⁊ vnderstendꝛ þ/og fœrer Auøxt/sumer hundradfalldan/sumer sextugfalldan/sumer þritugfalldan.

Luc. 10. 3 Vtþyding Lykingar af Sædarenum

C

4 Epterlyking wt af Illgresenu Mar. 4.

Adra Epterlyking lagde hn̄ þm fyrer og sagde/Himnaryke er lykt þeim mañe/sa er sæde godu Sæde i Akꝛ siñ/Eñ þa meñ suafu/ kom hn̄s Ouinꝛ/⁊ sædi Illgresi mz i bland Hueitit/ ⁊ for i burt. Eñ er grasit spratt vpp ⁊ bar Auøxt/þa auglystist ⁊ Illgresit. Eñ Þienarar ner geingu til Hwsfødursins ⁊ søgdu/Lauardꝛ/ Sæder þu eigi godu Sæde i Akꝛ þiñ/huadā kiemꝛ honum þa Illgresit? ⁊ hn̄ sagde til þra/Þat hefꝛ Fiandmadꝛ giørt. Þionarner søgdu þa/Villtu at vær førum og vtlesum þ? hn̄ sagde/ nei/so at þier vpprætit eigi Hueitid vnder eins/nær þier vtlesit Illgresit/ Lætid huortueggia vaxa allt til Kornskurdar/ og a Kornskeru tyma/skal eg seigia til Kornskurdarmaña/Lesit fyrst Illgresit samā/⁊ bindit þ i sma byndene til Brenslu/Eñ Hueitenu samansafnit i mina Kornhlødu.

D

5 Epterlyking af Mustardꝛ korne

Adra Epterlyking lagde hn̄ eñ fram fyrer þa ⁊ sagde/Himnaryke er lykt einu Mustards korne/þ madꝛ tok ⁊ sæde i Akꝛ siñ/huad ed minst er allra sæda/ eñ nær þ sprettur vpp/ er þ stæst allra Kaalgrasa/⁊ verdꝛ þ Trie/so at Fuglar Loptsins kōa ⁊ byggia vnder þss Kuistū.

6 Epterlyking af Swrdeige

Eñ adra Epterliking talade hn̄ til þra. Lykt er Himnaryke Swrdeigi/þ Kona tok ⁊ falde i þremꝛ mælum miøls/þar til/at þ syrdist allt til sama.

Psal. 77

Þetta allt talade Jesus i Epterlykingum til Folksins/ og fyrer vtan epterlykingar talade hn̄ ecke til þra/so ad vppfylldist huad sagt er fyrer Spamañen þañ er seiger: Muñ miñ mū eg vppluka i Epterlykingum/ ⁊ leyndañ Dom mun eg vtmæla af vpphafe Veralldar.

E

Þa liet Jesus Folkit fra sier/og kom jn̄ i hwsit/⁊ hn̄s Lœrisueinar geingu til hn̄s og søgdu/Keñ þu oss Lykingina Illgresis a Akrenū/Jesus suarade ⁊ sagde til þra/Hn̄ s̄ sæer godu

Sædi er

Sæde er Mañsins sonꝛ/ eñ Akuren er Heimureñ/ goda sædit eru þeir Rijkesins Syñer/ eñ Illgresit eru Illskuñar syner/ eñ Ouiuren sa er þui sade er Diøfullē/ eñ Kornskeru tijmen er endig þssarar Verålldar/ Kornskurdarmeñern eru Einglarner. Þui lijka s̄ nu vdꝛ Illgresit vtlesit F ⁊ i Ellde brendt/ so mū ⁊ skie i enda þessarar Verålldar. Þuiad Mañsins Son mun vtsenda sina Eingla/ ⁊ þeir munu samanlesa af hñs Rijke øll Hneykste ⁊ þeim er Ranginde giøra/ og þeir munu kasta þeim i Elldsins ofn/ þar mun vera grætꝛ og Tañagnistran/ Eñ þa mu nu Riettlater lioma sm̄ Sol i Rijke Fødurs þra. Huer Eyru hefer at heyra/ hñ heyre.

Vtlegging epter lyfingarīn ar aꝥ Illgresi nu

Og eñ/ þa er Himnarijke likt folgnum Fiarsiod a Akre/ huern ed madꝛ fañ og falde hñ/ og af þeim Fagnade er hñ hafde yfer honum/ gieck hñ burt og sellde allt huad hñ hafde/ ⁊ keypte þañ sama Akur

9 Epterlijking aꝥ Fiesiodnum

Og eñ aptꝛ er Himnarijke likt þm Kaupmañe/ er godrar Perlu leitade/ Og þa hñ fañ eina forkostuliga Perlu/ for hñ til ⁊ sellde allt huad hñ hafde ⁊ keypte þa sømu.

10 Aꝥ Perluñe

Og eñ aptur er Himnarijke lijkt Nete þui sm̄ i Sio er kastat/ ⁊ mz hueriu af øllu Fiskakyne dreigit verdꝛ/ eñ nær ꝥ er fullt/ draga þeir ꝥ at Lande/ sitia sidan og samanlesa hina godu i Kerølld/ eñ vondum snara þeir vt. So mun ⁊ skie i enda Verålldar/ at Einglar munu vtfara ⁊ hina vondu midt fra Riettlætum skilia/ ⁊ þeim munu þeir kasta i Elldsins ofn/ huar vera mun op og Tañagnistran.

11 Aꝥ Netenu
21 Vtþyding Epterlykingarīnar

G Og Iesus sagde til þra/ Hafi þier allt þtta vnderstadit? Þeir søgdu/ Eirnen Herra. Þa sagde hñ/ fyrer þui/ huer sa Skriptlærdꝛ sm̄ til Himnarijkis mentadꝛ er/ hñ lijkist þeim Hws fødꝛ sm̄ fram ber af sinum Fiarsiod nytt ⁊ gamallt.

Og ꝥ skiede þa Iesus hafde endat þessar Epterlijkingar/ at hñ gieck þadan ⁊ kom til siñar Fosturiardar/ ⁊ kiende þeim i þra Samkundu husū/ so at þeim hnyckte vid ⁊ søgdu/ Huadan kiemꝛ þessum slijk Speke ⁊ Kraptar? Er þesse eigi Timbursmidsins son? Heiter hanns Moder ecki Maria/ ⁊ brædꝛ hñs Iacob ⁊ Ioses/ Simon ⁊ Iudas? ⁊ eru hñs Systꝛ eij hier hia oss? Huadan kiemꝛ þessum allt þetta? Og so skañfylldust þeir vid hñ. Eñ Iesus suarade ⁊ sagde til þra/ Spamadꝛ er ei æn vegsemda nema a siñe Fosturiørd ⁊ i sinu hwsi. Og eigi giørde hñ þar mørg Krapta verk fijrer saker vantruar þra.

13 Christus i sinu Fosturlāde þyrelitinn
Math. 6.

## XIIII.

A Þeim tijma heyrde Herodes Fiordungs høfdige Ryktit af Iesu/ Og hñ sagde til siña Hirdsueina/ Þesse er Iohañis Baptista/ huer af dauda er vppaptur risen/ ⁊ þui giørast þesse Kraptauerk af honum. Þuiat Herodes hafde fanga latid Iohañem/ bundit hñ ⁊ i Vardhølld sett fyrer saker Herodiadis Hwsfreyiu Philippi brodꝛ hñs. Þuiat Iohañis hafde til hañs sagt/ Eige hæfer þier hana at hafa. Og þui villde hñ hafa lijflatid hñ/ eñ þorde þo eigi fyrer Folkenu/ þuiat ꝥ hiellt hñ fyrer Spamañ

Luc. 3.
Marc. 6.
1 Historiā aꝥ Iohañe Baptista huern Herodes aflijꝥade

Eñ at ærtijdardeigi Herodis/ danzade Dotter Herodiadis mitt frame fyrer honum/ og þad hagade Herodes ofuruel/ Af þui lofadi hñ hñe mz Eide/ at giefa hñe hus hū æskti af hm̄. Og epter þui hun var ædꝛ tileggiut af Modꝛ siñe/ sagde hun/ Gief mier a Diske Høfud Iohañis Baptista. Og Konūguren vard hryggꝛ/ Eñ þo fyrer Eidsins saker ⁊ þra er mz honū til B Bordz sætu baud hñ at ꝥ giæfest heñe. Sende vt ⁊ liet afhøfda Iohañem i Myrkuastofu. Og var Høfut hñs borit a Diske ⁊ giefit Stulkuñe/ ⁊ hun færde Modꝛ siñe. Þa komu Lærisueinar hñs/ ⁊ toku hñs Lijkama ⁊ grofu/ komu sidan ⁊ kuñgiørdu þad Iesu.

Eñ er Iesus heyrde ꝥ/ for hñ þadan a Skipe alleina til Eydemerkꝛ. Og þa Folkit heyrde þad/ fylgde ꝥ honum a fæte vr Stødunum. Og Iesus gieck fram vndan/ ⁊ leit þañ mykla mwg/ ⁊ sa aumꝛ a þeim/ ⁊ læknade þa af þeim sm̄ Kranker voru.

Luc. 9

Eñ at Kuellde geingu hñs Læresueinar til hñs ⁊ søgdu/ Þesse Stadꝛ er i eyde/ tijmē tekꝛ at lijda/ Lat Folkit fra þier/ at ꝥ gangi i Kauptunen ⁊ kaupe sier þar fædu. Eñ Iesus sagde til þra/ Þeir hafa þess eigi þørf at þeir gangi burt/ giefe þier þeim at eta. Þeir søgdu/ Vær høfum ecki hier nema fim̄ Braud ⁊ tuo Fiska. Hñ sagde/ Færit mier þau hingat. Og hñ baud Folkenu at setiast nidꝛ a grasit/ ⁊ tok þau fim̄ Braud og tuo Fiska/ leit til Himins/ E þackade ⁊ braut þau/ og gaf sinum Lærisueinum Brauden/ eñ Lærisueinarnꝛ gafu þau Folkenu/ Og þr snæddu aller ⁊ vrdu sadder/ ⁊ toku vpp þær leifar er afgeingu/ tolf Karfer fullar. Eñ þr ed etid høfdu voru tals fim̄ þusūd maña/ vndanteknum Konum ⁊ Børnum.

2 Fim̄ þusund maña fødd med fim̄ Braudum og tueimur Fiskum

Og iafnsnart kom Jesus sinum Lærisueinum til at þeir geinge a Skip/ ⁊ færu fyrer hm̄ yfer vm Sioen/ þar til hñ lieti Folkit fra sier. Og er hñ hafde Folkit fra sier lætit/ gieck hñ eirnsaman vppa Fiallit at bidiast fyrer. Og vm kuelldit var hñ þar alleina/ eñ Skipit var þa midt a Sianum/ ⁊ hraktist i Bylgiũum/ þuiat Vinduren var þuert i mote.

3 Jesus geingur a Siönum

Eñ vm fiordu eykt Nætur/ kom Jesus til þra gãgãde a Sianum. Eñ er Lærisueinarner sau hñ a Sionum ganga hrædduſt þeir/ ⁊ søgdu at þ være Skrimsl/ ⁊ kølludu vpp af hrædslu. Eñ Jesus talade strax til þra ⁊ sagde/ Verit støduger/ Eg em hñ ottist eigi. D

4 Petur söckur i Sioen wegna sinnar truar veyke

Eñ Petur suarade hm̄ ⁊ sagde/ Ef þu ert þ Herra þa biod mier at koma til þin a Vatnenu. Og hñ sagde/ Kom. Og Petur stie af Skipenu/ ⁊ gieck a Vatnenu at hñ kiæme til Jesu. Eñ er hñ leit megnã Vind/ ognade hm̄ ⁊ tok at søckua/ kallade ⁊ sagde/ Herra hialpa þu mier. Eñ Jesus riette iafnsnart Høndena ⁊ greip hñ/ ⁊ sagde til hñs/ Þu lijtiltrúadꝛ Fyrer þui efadest þu? Og er þeir voru a Skipit komner/ kyrde Vinden. Eñ þeir sm̄ a Skipenu voru komu ⁊ fiellu fram̄ fyrer honum/ ⁊ søgdu/ Sañliga ertu Gudz Sonꝛ

5 Falldꝛ Klædañã Christi

Og þeir foru yfer vm/ ⁊ komu til Genesareth iardar. Og er hñ þecktu þar Sueitarmeñ sendu þeir vt vm allt þ bygdarlag/ ⁊ færdu til hñs alla vanfæra meñ/ ⁊ bædu hñ vm at þeir mættu at eins snerta føll hñs Fata. Og so marger sm̄ hñ snertu vrdu aller heilbrigdir.

# XV.

1 Predikan i gegn mañasetningũ sm̄ meiner eru þrã yfer Gudz Bodord

Þa geingu til hñs Skrift lærder ⁊ Pharisei af Jerusalem ⁊ søgdu/ Fyrꝰ þui ofurtroda þiner Lærisueinar Olldungaña vppsetninga/ mz þui þeir þuo eigi sinar hendꝛ er þeir Braud eta? Hñ suarade ⁊ sagde til þra/ Fyrer þui ofurtrode þier Gudz Bodord fyrer ydüarn vppsetning? Þui Güd sagde/ Heidra skalltu Fødꝛ þiñ ⁊ Modꝛ/ ⁊ huer hñ bøluar Fødꝛ edꝛ Modꝛ/ sa skal Dauda deyia. Eñ þier seigit/ Nü hñ seiger til Fødꝛ edꝛ til Modur/ a Þat er Gudi giefit/ huar mz eg skyllda þier hialpa hñ/ giører riett/ Af þui skier þad at nær einge Heidrar neir Fødꝛ siñ nie Modꝛ/ ⁊ hafit so onytt giørt Gudz Bodord/ fyrer ydär vppsetnings saker. Þier Hræsnarar/ Vel hefer Esaias spæd af ydꝛ/ er hñ seiger: Þesse Lydꝛ nalægist mig mz sijnum Muñe/ ⁊ heidrar mig mz vørum sinum/ enn þra Hiørtu eru langt fra mier/ ad onytu dyrka þeir mig/ a medañ þeir kieña þær kieñingar sm̄ ecki eru añad eñ Bodord maña. A

a (Vel sic) Ef eg offra/ þar af hefꝛ þu meir a gagn

2 Hñ vtleggꝛ sagda Predikun mz Epterlykingum þad ei saurgist Hiörtun af yfer trodslu mañligra Bodorda/ helldꝛ Gudz Bodorda

Og hñ kallade Folkit til sin/ ⁊ sagde til þra/ Heyrit þier ⁊ vnderstandit þ. Huad er jñgeingꝛ i Muñin/ þ saurgar eigi mañiñ/ helldꝛ huad er fram̄ af muñinũ geingꝛ þ saurgar mañen. B

Þa geingu hñs Lærisueinar ad honum ⁊ søgdu/ Veistu/ ad þa ed þr Pharisei heyrdu þad ord skam̃fyllduſt þeir? Enn hñ suarade ⁊ sagde/ Oll Plantan hueria minn Himneskꝛ Fader plantar eigi/ mun vpprætast. Lætid þa fara/ þeir eru Blinder og blindra Leidtogarar/ Ef Blindꝛ leider blindan/ þa falla þr bæder i Grøfena.

3 Vtleggning Epterlikingariñar

Þa suarade Petꝛ ⁊ sagde til hñs/ Þyd oss þssa Epterlijkig/ Jesus sagde til þra/ Eru þier eñ so skilningslauser/ Skyniet þier eigi/ at allt huad i Muñen jñgeingꝛ/ þ hüfur i Magan/ ⁊ verdur fyrer edliliga räs vtskufat/ eñ huat af Muñenum framgeingꝛ/ þ kiemꝛ vt af Hiartanu/ ⁊ þ saurgꝛ Manneñ / Þuiat vt af Hiartanu koma vondar hugsaner/ Mañdrap/ Hordomꝛ/ Frillulife/ Þiofnadur/ Liuguitnã/ Lastaner/ Þetta er þ huad mañen saurgar/ Eñ mz opuegnum høndum at eta saurgar ecki Mañen.

4 Vm þa Canuersku Konuna Mar. 7.

Jesus gieck i burt þadan og for i Landzælfꝛ Tyri ⁊ Sidonis/ Og sia: at Kanuersk Kona gieck vt af þeim sømum Takmerkum/ kallade ⁊ sagde/ O Herra Sonꝛ Dauidz myskuna þu mier/ min Dotter küelst jlla af Dioflinum. Og hñ suarade heñe eigi orde. Hñs Lærisueinar geigu til hñs badu hñ ⁊ søgdü/ Læt hãa fara/ af þui hñ kallʳ eptʳ oss. Eñ hñ suarade ⁊ sagdi Eg em eigi sendꝛ/ nema til fortapadra Sauda af Huse Jsraels. Enn hun kom ⁊ fiell nidꝛ fyre honum/ ⁊ sagde/ Hialpa þu mier Herra. Enn hñ suarade heñe ⁊ sagde/ Þat er eigi tierligt at taka Braudit/ þ Barnañã er/ ⁊ kasta þui fyrer Hundana. Enn hun sagde: Satt er þ Herra/ eñ þo eta Hündar af molum þeim sm̄ detta af Bordum Drottna þra. Þa suaradi Jesus ⁊ sagde til heñar. Þu Kona/ mikel er þin trua/ vde þier so s̄ þu villt. Og a þre somu stüdu vard heñar Dotter heilbrigd. C

5 Fiolde Siukra fær Heilsubot

Og er Jesus gieck þadan/ kõ hñ ad Sionum i Galilea/ gieck vppa Fiallit/ ⁊ sette sig þar. D Og margt Folk dreif til hñs/ hafande mz sier Hallta/ Blinda/ Mallausa/ Vanada/ ⁊ marga adra/ ⁊ snørudu þm fram fyrer fætꝛ Jesu/ ⁊ hñ læknade þa/ so at Folkit vndradist/ er þ saga

Mælla

Mallausa mæla/ ꝛ Vaada heila/ Nallta gāga/ Blinda Siaāde/ ꝛ vegsomudu Gud Jsraels.

Og Jesus kallade sina Lærisueina til sin/ ꝛ sagde/ Mig aumkar yfer Folkit/ þuiad þr hafa þria daga hia mier verit ꝛ hafa ecki til matar/ ꝛ fastande vil eg þa ecki fra mier fara lata/ so ad eigi verde þeir Nungrmorda a veigenum. Og Lærisueinarner sogdu til hn̄s/ Nuadan toku vær so morg Braud hier a Eydemorku/ at vier sediuṁ mꝫ jafnmargt Folk? Jesus sagde til þra/ Nuersu morg Braud hafe þier? þeir sogdu/ Sio/ ꝛ fa Fiskakorn. Og hañ baud Folkēu at þ settist nidr a Jordēa/ Og tok þau sio braudē ꝛ Fiskāa/ ꝛ er hn̄ hafde þacker giort braut hn̄ þau/ ꝛ gaf Lærisueinunum/ Og hn̄s Lærisueinar gafu þau Folkenu. Og þeir atu aller ꝛ vrdu sadder/ ꝛ toku vpp þad sm̄ yfer var Molaña sio Karfer fullar. Enn þr sm̄ etid hofdu voru fiorar Þusunder maña/ fyrer vtan Konr ꝛ Born. Og er hn̄ hafde Folkit fra sier latid/ stie hn̄ a Skip/ ꝛ kom i ende merkr Magdalalandz.

Marc. 8
6
Fiogr Þusund maña fødd mꝫ sio braudum og þaam Fiskum

# XVI.

A Na geingu Pharisei ꝛ Saducei til hn̄s/ Freistande hn̄s/ ꝛ badu hann at syna sier Teikn af Nimne/ Enn hn̄ suarade þm ꝛ sagde/ A Kuellden seigi þier/ þ verdr fijnt vedr/ þt Niminrode er/ Og a morna seigi þier/ J dag verdr hregguidre/ þuiat Niminen er raudur ꝛ dim̄ur. Þier Nræsnarar/ Niminsins asian kunne þier at dæma/ enn ad vita Teikn þessara tijma Kuñe þier eigi. Þesse vonda ꝛ Nordōs Kynslod æsker Teikns/ ꝛ henne skal eckert Teikn giefet verda / nema Teikn Jona Spamās. Og hn̄ forliet þa ꝛ gieck i burt.

1
Jesus strappar Phariseos og Saduseos sm̄ badust epter Teikne
Marc. 8.

Og er hañs Læresueinar voru yfer vm farner/ hofdu þeir gleymt Braud mꝫ sier at taka. Eñ Jesus sagde til þra/ Siaet til/ ꝛ vaktit ydr vid Surdeigi þra Phariseis ꝛ Saduceis. Þa

B þeinktu þeir mꝫ sier ꝛ sogdu/ þ mun vera þ vær hofum ei Braud mꝫ oss tekit. Enn er Jesus fornam þ/ sagde hn̄ til þra/ Þier lijtil truader/ Nuar fyrer huxe þier vm þ þo þier hafet eige Brauden mꝫ ydr haft? skilie þier eñ ecki? Miñist þier ecki a þau fim̄ braud a mzal fim̄ þusunda/ eda húsu margar Karfer ad þier tokud þa vpp? ꝛ eigi eñ a þau sio braud/ a medal fiogra Þusunda/ ꝛ huersu margar Karfer ed þier tokut þa vpp? Nuar fyrer skilie þier eigi/ at eg sagda ydr ecki af braudenu/ þa eg sagda/ Vaktit ydr fyrer sœrdeigi þra Phariseis ꝛ Saduceis. Þa vnderstodū þeir at hn̄ hafde eigi sagt þeim/ þ þr skylldu vara sig vid Sœrdeigi braud sins/ helldr vid Lærdome þra Phariseis ꝛ Saduceis.

Luc. 12.
2
Phariseaña Surdeig

Þa kom Jesus i Landzalfur Borgarinnar Cesaree Philippi/ ꝛ spurde sina Lærisueina at ꝛ sagde/ Nuad seigia menn til /huer Mañsins Son sie? Þeir sogdu/ Sumer seigia þu siert

C Johannis Baptista/ Eñ adrer/ þu siert Elias/ sumer at þu siert Jeremias/ edr eirn af Spamonum. Nañ sagde til þra: Nuern seigi þier mig vera? Þa suarade Simon Petrus ꝛ sagde/ Þu ert Christr Sonr Gudz Lifāda. Eñ Jesus suaradi ꝛ sagde til hn̄s/ Sæll ertu Simon Jōas son/ Þuiat Nolld ꝛ Blod birte þier þ eigi/ helldr miñ Nimneskr Fader. Eg seigi þier ꝛ/ Þu ert Petrus/ ꝛ yfer þeña Nellustein mun eg vppabyggia mina Christne/ ꝛ Nlidin Neluijtanna skulu eigi magn hafa i giegn heñe. Og þier mun eg giefa Lyckla Nimnarijkis/ ꝛ allt huad þu bindr a Jordu/ skal a Nimnum bundit vera/ ꝛ allt huad þu leyser a Jordu/ skal a Nimnum leyst vera.

3
Spurning/ huer Christus sie
4
Andsuar Petrs
5
Huer ad sie sōn Christne
6
valld Christeligrar Kirkiu

Þa fyrerbaud hn̄ sinum Læresueinum/ at þeir segde þ nockrum/ at hn̄ være Jesus sa Christus. Þadan i fra tok Jesus til at auglysa fyrer sinum Lærisueinum/ þ honum byriade at gāga til Jerusalem/ ꝛ margt at lijda af Vlldoñgum/ Skriftlærdum/ ꝛ Kieñemanna Nofdingiū/ ꝛ Lijflaten voa/ ꝛ a þridia deigi vpp at rijsa. Eñ Petur tok hn̄ vt af/ atalde hn̄ ꝛ sagde/ Ner

D ra þyrm sialfum þier/ at eigi hende þig þetta. Enn hn̄ sneirist vid og sagde til Peturs/ Far fra mier Andskote/ þu ert mier hneykslanligr/ Þuiat þu skilur eigi huad Gudz er/ helldur huad Mañanna er.

7
Christus seiger fyrer sin̄ Dauda og Pijnu
8
Petrus strappast

Jesus sagde þa til siña Lærisueina/ ef nockr vill mier epterfylgia/ þa afneite hn̄ sialfū sier/ og take siñ Kross a sig ꝛ fylge mier epter. Þuiat huer hn̄ vill sitt lijf foruara/ sa mun þui tyna/ Enn huer sinu Lijfe tyner fyrer minar saker/ sa mun þ fiña. Þui huad stodar þ mañenū þo hn̄ hrepte allan Neimen/ eñ giorde tion siñar Salu? Edr huad mun madureñ fa giefit þat hn̄ Salu sina mꝫ endurleyse? Þuiat þ mun skie/ at Mañsins Son mun koma i Dyrd sins Fodurs/ mꝫ sinum Einglum/ ꝛ þa mun hn̄ giallda huerium sm̄ einum epter sinum verkum. Sañliga seige eg ydr/ at nockrer standa þr hier sm̄ Daudan munu eigi smacka/ þar til at þr sia Mannsins Son komanda i sinu Rijke.

9
Vt af Krossenū og afsokunīne
10
Huggū þra sem Krossin bera



Og sex ds

# XVII.

1 Förklaran Christi a Fiallenu

Og sex døgum þar epter/ tok Jesus mz sier Petrum og Jacobum/ og Johañ- em broðr hñs/ z hafde þa afsijdis vppa hatt Fiall/ z auglystist fyrer þeim. Og hñs Asian skein sm̃ Sol/ eñ hñs Klæde vrdu so biort sm̃ Lios/ Og sia: at honum birtust þeir Moyses z Elias/ z tøludu vid hñ. Eñ Petur ansade og sagde til Jesu/ Herra/ hier er oss gott ad vera. Ef þu villt/ þa vilium vær giøra hier þriar Tialldbuder/ þier eina/ Moyse eina/ Elie eina. Og þa er hñ var þetta ad tala. Sia: ad biart Sky vmskygde þa/ z Sia: at Rødden vr Skyenu sagde/ Þesse er Sonr miñ elskuligr/ at huerium mier vel þocknast/ heyrit honum. Og er Lærisuein- arner heyrdu þ/ fiellu þeir fram̃ a sinar Asianer z vrdu miøg hrædder/ Eñ Jesus gieck til þra tok a þeim z sagde: Standit vpp z verit eigi hrædder. Eñ er þeir litu vpp/ sau þeirønguan nema Jesum eirnsaman

2 Petri. 1
Marc. 9.
Luc. 9.
Supra 3.

2 Vt af Elia sem koma skyllde

Og er þeir geingu ofan af Fiallenu/ baud Jesus þeim z sagde/ Þier skulut ønguum þssa Sion seigia þar til ad Mannsins son er vppaptur risen af Dauda. Og hañs Lærisueinar spurdu hñ at z søgdu/ Huar fyre seigia hiner Skriftlærdu þa/ þ Elias hliote aðr at koma? Jesus suarade z sagde til þra/ Elias a at sonnu aðr at koma/ z alla hlute ad lagfæra. Eñ eg seigi ydr þ/ Elias er nu komen/ z þr kiendu hñ eigi/ helldr giørdu þr vid hñ huad hellst þr villdu So mũ z Mañsins Son verda af þeim at lijda. Þa vnderstodu Lærisueinarner þ hñ hafdi sagt af Johañe Baptista

3 Tunglsiukr fær Heilsu

Og er þr komu til Folksins/ gieck madr til hñs z fiell a Knien fyrer honum z sagde/ Her- ra myskuna þu syne minum/ þuiat hñ er Tungl siukr/ z er herfeliga þijndr/ Þui opt fellr hñ a Elld og þrattsinnis i Vatn. Eg hafda hann og til þinna Læresueina/ og þeir gatu hañ eigi Læknat. Enn Jesus suarade z sagde/ O þu vantruud z rangsnuen Kynslod/ huersu lein ge skal eg hia ydr vera? Huersu leinge a eg ydr at lijda? Hafet hñ hingat til min. Og Je- sus hastade a hñ/ z Diøfullen for vt af honum/ z Sueirnen vard Heilbrigdr a samre stũdu/

4 Postularner straffast vegna þra vantruar

Þa geingu Læresueinarner heimugliga til Jesu og søgdu/ Fyrr þui gatu vær eigi rekit hñ vt? Jesus suarade z sagde til þra/ Fyrer ydar Vantruar saker. Þui eg seigi ydur fyrer sañ/ Ef þier hefdut Tru so sm̃ Mustars korn/ mætte þier seigia Fialle þessu/ Far þu hiedan z þa gat/ Og munde þ fara/ z eckert munde ydr omattugt vera. Eñ þetta kyn rekst eigi vt nema fyrer Bæn z Føstu.

5 Kraptr Truar innar

6 Fyrersøgn vt af Dauda og Pinu Christi

Enn sem þeir sysludust vm i Galilea sagde Jesus til þra/ Epterkomande er/ þ Mañsins Sonr mun ofurselldr verda i manna hendr/ z lijflaten verda/ z a þridia deigi mũ hñ vpprijsa/ Og vid þ vrdu þeir næsta hrygguer.

7 Vm Skatt peningen a (Statera) er eitt Lod Silfurs

Og er þeir komu til Chaphernaum/ geingu þeir at Petre sm̃ Skattgialldit vppbaru/ z søgdu/ Ydar Meistare gielldr hñ eigi Skattpeningen? Hñ sagde/ Ja/ z er hñ gieck jñ i hw- sit/ kom Jesus fyrr at honum z sagde/ Huad lijst þier Simon/ af huorum taka Jardliger Kõ ungar Toll edr Skattpening/ af sinum Sonum edr af annarligum? Petur sagde/ af añar- ligum/ Jesus sagde til hñs/ Þa eru Synerner frij. Eñ so at vier sieum þm ei at hneykslan/ þa far til Siafar z kasta vt Aunglenum/ z þañ Fisk õ fyrstr kiemr vpp tak þu/ z er þu op- nar hñs gin muntu finna eina a Stateram/ þa sømu tak z gief ~~honum~~ þeim fyrer mig z þig.

# XVIII.

1 Huer mestr sie i Himnaryke

I þann sama tijma/ geingu Lærisueinarner til Jesu og søgdu/ Huer er mestur i Himnarijke? Jesus kallade Barn til sin z sette þ mitt a millum þra z sagde/ Sannliga seigi eg ydr/ nema þier snuist z verdit so sm̃ Smaborn/ munu þier eigi jnganga i Himnarijke. Huer sialfur sig læckar suo sm̃ vngberne þetta/ sa er mestr i Himnarijke. Og huer sm̃ medtekr eitt þuilijkt vngmenne i minu nafne/ sa medtekr mig. Enn huer hñ hneykslar eirn af þessum vesalingum õ a mig trua/ þarfara være honum ad Mylnusteirn heingdist vid hals honum/ z være i Siaf- ardiup søcktur.

2 Vt af hneykslũ ifie huerra meñ eiga ad fordast

Vei sie Heimenũ fyrer hneykslaner. Þar hliota hneykslaner at koma/ enn þo vie sie þm manne fyrer huern ed hneykslunen kemr. Enn ef þin hønd edr þinn Fotur hneykslar þig/ snijd hñ af og snara honum fra þier/ Betra er þier jnn at ganga til lijfsins/ halltr z handar- uane/ enn þ þu hafer tuær hendr edr tuo fætur/ z verder i eilijfan Elld kastadr. Og ef Auga þitt hneykslar þig/ þa slijt þ vt z snara þui fra þier/ Betra er þier eineygdum jnn ad ganga til Lijfsins

til lijffsins/en̄ þ þu hafer tuo Augu ⁊ verder i Heluijtskan Elld kastadr.

Siaed til ad þier forsmaet ecki eirn af þessum Vesalingum/ Þuiat eg seigi ydur/ at þeirra Einglar a Himnum sia jafnā mins Fødurs auglit a Himnū. Þuiat Mān̄sins son er komen at frelsa huad fortapat var.

Luc. 15.

B

Huad virdist ydr? Ef einhuer hefde Hundrat Sauda/ ⁊ villist eirn af þeim/ Skilst hn̄ eigi vid þa niu ⁊ Niutijgi a Fiøllum vppe/ ⁊ fer at leita hn̄s sm̄ villtist? Og ef so skier/ at hn̄ finnur hn̄/ Sannliga seigi eg ydr/ at hn̄ fagnar meir yfer honum/ enn yfer hinum niu ⁊ Niutijgu sm̄ eigi villtust. So er eigi vilie fyrer Fødr ydrum sm̄ a Himnum er at eirn af þessum Vesalingum farist.

3 Lærdomr wt af Idranar yfer botinne

4 Vm Ordsins þionustu og Kirkiuualldit og þess atferle

Enn ef Brodr þinn brytur vid þig/ far þu/ ⁊ straffa hn̄ a millum þin ⁊ hn̄s eins samans/ Ef hn̄ heyrer þig/ þa hefur þu þinn Broder vn̄it. Enn ef hn̄ heyrer þig eigi/ þa tak en̄ eirn edr tuo til þin/ so at i munne tueggia edr þriggia stande øll ord. Nu ef hn̄ heyr[s] eige þeim/ þa seig þ Samkunduñe. Enn ef hn̄ heyrer ei Samkunduñe/ þa hallt hn̄ sm̄ annā Heidingia og Tollheimtumann. Sañliga seige eg ydr/ huad hellst þier bindit a Jørdu/ skal ⁊ a Himnum bundit vera/ ⁊ huad hellst þier leysit a Jørdu/ skal leyst vera a Himne. Og enn seige eg ydr þ/ Huad ef tueir af ydr samtakit a Jørdu vm huern hlut sm̄ þ er/ ed þr vilia bidia/ skal þeim veitt vera af minum Fodur sm̄ a Himnum er/ Þuiat huar tueir edr þrijr samansafnader eru i minu nafne/ þar em eg mitt a millum þra.

C

5 Ban̄ og forbod

6 Vm Synda fyrergiefningena

7 Vm almeñeligā søfnud Kirkiuñar

Þa geick Petur til hn̄s ⁊ sagde/ Herra/ Hůsu opt skal eg minum Brodr/ þeim s̄ vid mig brytur/ fyrer giefa? Er þ nog siø siñum? Jesus sagde til hn̄s/ Eg seige þier eigi siø sinnum helldr siøtijge sinnū siø sinnū. Fyrer þui er Himnarijke lijkt þm̄ Konunge s̄ reikna villde vid Þiona sina. Og er hn̄ tok til at reikna/ kom eirn fyrer hn̄/ sa er honū var skylldugr tiu þusūd Punda. En̄ þa hn̄ hafde eigi til huad hn̄ skyllde giallda/ baud Herran/ at selia hn̄ ⁊ hanns Hwsfreyiu/ so ⁊ Børnen/ ⁊ allt huad hn̄ ætte/ ⁊ borga mz. Enn sa Þion fiell fram̄ tilbad hn̄ ⁊ sagde/ Herra/ haf Þolinmæde vid mig/ allt skal eg þier giallda/ enn Herran sa aumr þss Þions/ ⁊ liet hn̄ lausan ⁊ gaf honum vpp skulldena.

8 Þa Syndugu skulu men̄ taka til Idranar

9 Vtþyding med eirne Epterlijkingu/ þad margar Synder werde oss fyrer giefnar

D

Þa gieck sa same þion vt/ ⁊ fann eirn af sinum samlags þionum/ sa var honum hundrad pēinga skylldugr/ þañ greip hn̄ ⁊ tok fyrer Kuerkar honum ⁊ sagde/ Giallt huad þu ert mier skylldugr. Þa fiell hn̄s samlags þion fram̄/ bad hañ/ ⁊ sagde/ Haf Þolinmæde vid mig/ þui allt skal eg þier giallda. Enn hn̄ villde eigi/ helldr for hn̄ til ⁊ liet hn̄ i Dyplitzu/ þar til hañ hafde borgat sina skulld. Enn er hn̄s samþionar sau huad skiede/ vrdu þeir miøg hrygguer vid/ komu/ ⁊ vnderuijsudu sinum Herra allt huad giørst hafde. Þa kallade hn̄s Herra a hn̄/ ⁊ sagde til hans/ Þu hinn Vonde Þion/ alla þessa skulld gaf eg þier til/ med þui þu badst mig/ Byriade þier eigi myskūsamr ad vera vid þinn samlags þion/ lijka sm̄ eg var þier myskunsamr. Og hn̄s Herra vard reidr/ ⁊ ofursellde hn̄ Kuølurunū/ þāgat til at hn̄ hafde borgat allt huad hn̄ var honum skulldugr. So mun minn Himneskr Fader giøra ydr/ ef þier fyrergefit eige af ydrum hiørtum/ huer eirn sinum Brodr misgiørder sinar.

## XIX.

A

OG þ skiede sm̄ Jesus hafde lyktad þessar Rædr/ at hañ for af Galilea/ ⁊ kom i ende merkur Gydingalandz/ ødrumeigen Jordanar / og margt Folk fylgde honum epter/ ⁊ þar læknade hn̄ þa.

Marc. 1.

Þa geingu Pharisei til hn̄s/ freistudu hn̄s ⁊ søgdu/ Leyfist nockut manneninu at forlæta sina Eigenkonu fyrer hueria sm̄ eina søk? Enn hann suarade ⁊ sagde til þra/ Hafe þier eige lesit/ at sa er i vpphafe skapade mannen/ hn̄ giørde þ at ṽa skyllde madr ⁊ Kōa/ ⁊ sagde/ Fyre þui mū maduren forlæta Fødr ⁊ Modr ⁊ vidteingiast eigenkonu sinne/ ⁊ þau tuø mūu eitt Holld vera/ So eru þau nu eige tuø/ helldr eitt Holld. En̄ huad Gud hefur samanteingt/ þ skal maduren eige j sundr skilia.

1 Vm Hiuskaparbandit

Gen. 1. 2

Þa søgdu þr/ Fyrer þui baud Moyses þa/ at gefast skyllde skilnadarskra/ ⁊ hana af forlæta? Hn̄ sagde til þra/ Moyses hefr fyrer Hardud yduars hiarta leyft ydr at forlæta Hwsfreyur ydrar/ enn af vpphafe var þ eige so. En̄ eg seige ydr þ/ Huer sina Eigenkonu forlætur (nema þ sie fyrer Horunar søk) ⁊ giptist añare/ sa dryger Hor. Og huer fraskilinne giptist/ sa dryger og Hor.

Deut. 14

2 Vm skilnat Hionañā

B

Þa søgdu Lærisueinarner til hn̄s/ Ef so er hattat mañsins malefnum vid Eignarkonuna/

Þa er

þa er eige gagn i at giptast. En̄ hn̄ sagde til þra/ þetta ord fa eige aller hondlat/ helldr þeir huerium ꝥ er giefit. Þuiat þar eru þeir Gelldingar/ sm̄ so verda af Modurkuide fæder/ ⁊ þr Gelldingar eru huerier af monnum eru gellder/ ⁊ þar eru ⁊ lyka þeir Gelldingar sm̄ sialfa sig hafa gellt/ fyrer Himnarijkis saker. Sa gripit gietur hn̄ grijpe ꝥ.

3 Vm Gelldinga

þa voru smaborn til hn̄s hofd/ so at hn̄ legde hendr yfer þau/ og bædist fyr᷒/ En̄ Lærisueinarner auytudu þa/ Jesus sagde til þra/ Latid Bornē kyrr/ ⁊ fyrerbiodit þeim eige til min at koma/ þuiad slijkra er Himnarijke. Og er hn̄ hafde hendr yfer þau lagt/ gieck hn̄ þadan.

4 Þad Himnarijke sie smabarnana

Og Sia: at eirn gieck at honum ⁊ sagde til hn̄s/ Gode Meistare/ Huad skal eg þess gott giora at eg hafe eilijft Lijf? Huerium hn̄ suaradi/ Huad kallar þu mig godan? Eingen er godr nema eirn/ sem er Gud. Enn ef þu villt til Lijfsins jnnganga/ suo varduelt þu Bodorden. Hn̄ sagde þa til hn̄s/ Nú hellst? En̄ Jesus sagde/ Ei skltu man̄ vega/ Ei sktu horast/ Ei skltu stela/ Eigi skalltu Liuguitne mæla/ Heidra skalltu Fodr þinn ⁊ Modr/ ⁊ elska skalt þu Naunga þin̄ so sm̄ sialfan þig. Þa sagde Vnge maduren til hn̄s/ þetta allt hef eg vard ueitt i fra Barnæsku minne / Huad brestr mig þa? Jesus sagde til hn̄s/ Ef þu villt algiordr vera/ far burt og sel allt huad þu hefer ⁊ gief Fatækum/ ⁊ munt þu þa siod hafa a Himnekom þa ⁊ fylg mier so epter. Og er hin̄ vnge madr heyrde ꝥ ord/ gieck hn̄ hryggr i burt/ þuiat hn̄ hafde myklar eigr.

5 Huernen men̄ meigi audlast eilijft lijf

6 Ef nockur vill vera algiordr

C

Enn Jesus sagde til sinna Lærisueina/ Sannliga seige eg ydr/ at toruellt er Rijkum jnn ad ganga i Himnarijke. Og enn seige eg ydr/ ꝥ auduelldara er Vlfballdanum at smiuga i giegnum Nalar auga/ enn Rijkum jn̄ ad ganga i Gudz rijke. Og er Lærisueinarner heyrdu ꝥ/ vrdu þeir miog ottaslegner ⁊ sogdu/ Huer fær þa hialpast? Enn Jesus leit vid þeim ⁊ sagde til þra/ Hia monnum er ꝥ omoguligt/ en̄ hia Gude er allt moguligt.

7 Vm þa Rijku agiarnu

Mar. 01

Luc. 18.

D

Þa suarade Petur ⁊ sagde til hn̄s/ Siadu: at vier forlietū allt ⁊ fylgdum þier epter/ Huad skier oss þar fyrer? Enn Jesus sagde til þra/ Sannliga seige eg ydr/ at þier huerier mier hafit epterfylgt i Endurfædinguñe/ þa er Mannsins son situr a Stole sinnar Tignar/ mūu þier ⁊ sitia a tolf Stolū/ dæmande tolf Kynkuisler Jsraels/ Og huer hn̄ forlætur Hws edr Brædur/ Systr/ Fodr eda Modr/ edr Eigenkonu eda Born eda Akra/ fyrer mins nafns saker/ sa mun hundrad fallt i staden taka/ ⁊ erfa eilijft Lijf. Enn marger þeir sm̄ eru fyrster/ verda sijdaster/ Og þr s̄ sijdaster eru verda hiner fyrstu

8 Huggun fyrer þa Fatæku

Mar. 10.

Luc. 18.

# XX.

Himnarijke er lijkt þm Hwsfodr s̄ vtgieck snem̄a Morguns Verkmen̄ at leiga i Vijngard sinn. Enn ad giordū samningi vid Verkmeñena/ af dagligu penigs giallde/ sende hn̄ þa i sinn Vijngard. Og nær þridiu stund gieck hn̄ vt/ ⁊ leit adra Jdiulausa stāda a Torgenu/ ⁊ sagde til þra/ Fare þier i min̄ Vijngard/ og huad riett er mun eg giefa ydur. Þeir geingu ⁊ þangat. Og enn gieck hn̄ vt aptur vm siettu ⁊ niundu stund / ⁊ giorde so lijka. Enn vm elleftu stund gieck hn̄ vt/ ⁊ fann en̄ adra standa jdiulausa ⁊ sagde til þra/ Huar fyrer stāde þier hier allā dag jdiulauser? Þeir sogdu til hn̄/ þuiad eingen hefur leigt oss. Hn̄ sagde til þra/ Fare þier og i minn Vijngard/ ⁊ huad riett er skulu þier fa.

1 Vtþyding þrar seinustu mals greinar nz Eptterlijkingu

A

En̄ þa Kuelld var komit/ sagde Herran Vijngardsins til sins Radamans/ Kalladu Verkamennena ⁊ gialld þeim verdkaupet. Og hn̄ tok til i fra enum seinasta ⁊ allt til hins fyrsta/ Þa komu þr sm̄ vm elleftu stund leigd᷒ voru/ ⁊ huer þra niztok sinn pening. En̄ er hiner fyrstu komu/ meintu þr ꝥ þr mūdu fa meira/ ⁊ huer þra medtok sin̄ Pening. Og þa er þeir hofdu hn̄ medtekit/ mogludu þeir i mote Hwsfodurnum ⁊ sogdu/ Þesser seinustu hafa eina stund erfidat/ ⁊ þu giorder þa oss jafna/ vier sm̄ borit hofum þunga ⁊ hita Dagsins.

B

En̄ hn̄ suarade ⁊ sagde til eis þra/ Vinur/ ei giore eg þier oriett. Ertu ecki asattur orden vid mig vm eirn Pening? Tak huad þitt er ⁊ far burt. Enn þessum seinasta vil eg giefa so sm̄ þier. Eda lofast mier ecki at giora af minu huad eg vil? Eda ertu vm ꝥ rangeygdr/ þo ad eg sie godgiarn? So verda nu sidaster hiner fyrstu/ ⁊ fyrster hiner sidustu. Þuiat marger eru kallader enn faer vtualder.

Og hn̄ ferdadist vpp til Jerusalem/ ⁊ tok þa tolf Lærisueina heimugliga til sin a veigenū og sagde til þra/ Siaet: Vier reisum nu vpp til Jerusalem/ ⁊ Mannsins son mun ofurseliast Keñemaña hofdingiū/ ⁊ skriftlærdū/ ⁊ þr mūu hn̄ fordæma til dauda/ ⁊ ofurselia hn̄ Heidingiū til spottūar ⁊ Hwdstrokunar/ ⁊ til Krossfestingar/ Og a þridia deigi mū hn̄ vppaptr rijsa.

2 Ein fyrersogn vm hn̄s Dauda og vpprisu

C

þa gieck

Þa gieck Moder sona Zebedei til hn̄s/ medr syne sina/ fallande fyrer hn̄ fram̄/ ⁊ bad noc kurs af honum. Og hn̄ sagde til hen̄ar/ Huad villtu? Hun sagde til hn̄s / Laat þessa mina sonu sitia i Rÿke þinu/ þann eina til þinnar hægre handar/ ⁊ annā til þinnar vinstre hand-ar. Enn Jesus suarade ⁊ sagde/ Þier vited eigi huad þier bidied. Gete þid þann Kaleik druckit huern eg mun drecka/ ⁊ þre skÿrn skÿrast latid huerre eg mun skÿrast? Þeir sogdu til hn̄z/ þ getu vid. Og hn̄ sagde til þra/ Min̄ Kaleik munu þid at sonnu drecka/ ⁊ þre Skÿrn huerre eg skÿrunst/ munu þid skÿrast. Enn þ at sitia til minnar hægre ⁊ vinstre Handar/ er eigi min ydr at giefa /helldr þeim/ huerium þ er fyrer buit af minū Fodr.

3
Guttmanlig wirdingar agirne

D Og er þeir tiu heyrdu þ/ þycktust þeir þeim tueimr brædrum. Enn Jesus kallade þa til sin ⁊ sagde/ Þier vitid ad Veralldar man̄a Hofdingiar drottna yfer þeim/ ⁊ þr ed Volldug-er eru hafa Yferuolld. So skal eigi vera ydar a mille/ Helldr huer hn̄ vill ydr a mille Voll-dugr vera/ sie sa ydar þienare. Og huer ydar sm̄ fremstur vill vera/ vere hn̄ ydar Þion. Lÿka so sm̄ Man̄sins son kom eigi at hn̄ liete sier þ on r/ helldr vppa þ hn̄ þionade / ⁊ giæfe sitt Lÿf til endurlausnar fyrer marga.

Marc. 10
Luc. 22.
4
Grein a mille Krisin̄ar og Veralldligs walldz

Og þa er þeir geingu vt af Jericho/ fylgde honū margt Folk epter. Og sia: at tueir Blin der satu vid veigen/ ⁊ þa þeir heyrdu þ at Jesus gieck þar fram̄ hia/ kolldudu þr ⁊ sogdu/ O herra sonr Dauidz myskuna þu ockr. En̄ Folkit hastade a þa at þr þegde. En̄ þeir kolludu þui meir ⁊ sogdu. O Herra sonr Dauidz myskūa þu ockr/ ⁊ Jesus stadnæmdist/ kallade a þa og sagde/ Huad vilie þid at eg skule giora yckr? Þeir sogdu til hn̄s/ Herra/ þ/ at ockar Augu vpplukist. Enn Jesus sa aumr a þeim/ snart augu þra/ Og þeir sau jafnskiott/ ⁊ fylgdu hm̄ epter.

5
Tueir blinder fa Syn

## XXI.

A OG er þeir toku at nalgast Jerusalem/ ⁊ komu til Bethphage vid Fiallit Oli-uett/ sende Jesus vt tuo sina Lærisueina ⁊ sagdi til þra/ Fare þid i þ Kauptū sem fyrer yckr er/ ⁊ strax munu þid fin̄a Osnu bundna/ ⁊ Fola hia hen̄e/ Ley sit hāa ⁊ leidit til min/ Og ef einhuer seigr nockut til yckar/ þa seigit/ at Her-ran hafe þra þorf/ og jafnsnart mun hn̄ lata þau laus. Enn þ skiede so ad vppfylldist huad sagt er fyrer Spamannen er seigr: Seigit Dotturenne Zi-on/ Sia: Þinn Kogr kemr til þin Hoguær/ sitiādi a Osnu ⁊ a Fola Klyfbæriligrar Osnu.

1
Vt af Inreidinne Christi i Jerusalem og hn̄s eilÿfa Rÿke og Kiennemanskap
Zacha. 9

Enn Lærisueinarner geingu burt ⁊ giordu so sm̄ Jesus hafde bodit þeim/ og leiddu mz sier Osnuna ⁊ Folan/ ⁊ logdu yfer þau sin Klæde/ ⁊ settu hn̄ þar vppa. Enn margt folk breidde sin klæde a veigen. Og adrer hiuggu Kuistu af Trianum/ ⁊ dreifdu þeim a veigen. Enn þ Folkit s fyrer gieck/ ⁊ epterfylgde/ kallade ⁊ sagde/ Hosianna Syne Dauidz/ Blezadr sie sa s kiemr i nafne DROTTINS/ Hosianna i hæstum Hædum.

Og er hn̄ for jn̄ i Jerusalem/ var oll Borgen a reidu skialfe/ ⁊ sagde/ Huer er þesse? En̄ Folkit sagde/ Þetta er Jesus Spamaduren af Nadsareth vr Galilea. Og Jesus gieck in̄ i Gudz Musteri ⁊ rak vt alla Seliendr ⁊ Kaupendr i Musterenu/ ⁊ Bordum Vexlūar man̄a og stolum þra er Dwfr selldu hratt hn̄ vm/ og sagde til þra/ Skrifat er/ Mitt Hws sk Bæ-na hus kallast/ en̄ þier hafet giort þ at Spilluirkia jnne. Og til hn̄s geingu Blinder ⁊ hall-ter i Musterit/ ⁊ hn̄ læknade þa.

2
Seliendr og Kaupendr rekast wt af Musterenu
3
Gudz Hws

B Enn er Kiennemanna hofdingiar og Skriftlærder/ sau þær vndraner sm̄ hn̄ giorde/ og þ Bornen kolludu i Musterenu ⁊ sogdu/ Hosianna þm Syne Dauidz/ reiddust þeir/ ⁊ sogdu til hn̄s/ Heyrer þu huad þesser seigia? Jesus sagde til þra/ Ja vite men̄/ Hafe þier alldrei lesit þ/ Af munne Vngbarna ⁊ Briostmylkinga/ hefr þu Lofit tilreidt? Og hn̄ forliet þa ⁊ geck vt af Borgin̄e til Bethania ⁊ bleif þar.

4
Bornen lofa Christum

En̄ at Morne er hn̄ gieck aptur til Borgarinnar/ Hungrade hn̄. Og sm̄ hn̄ sa eitt Fÿkiu trie vid Veigen/ gieck hn̄ þangat at/ ⁊ fann eckert a þui/ nema einasta Bloden/ Og sagde til þess/ Hiedan i fra vaxe alldreigi Auoxtur af þier at eilÿfu. Og þad Fikiutrie visnade vpp jafnsnart/ Og er Læresueinarner sau þ/ vndrudust þr og sogdu/ Hūnen er Fÿkiutried so snart vppþornat? Enn Jesus suarade ⁊ sagde til þra/ Sannliga seigi eg ydr/ ef þier hafet Tru-na ⁊ efit eigi/ þa mūu þier eigi einasta giora slikt vid Fikiutried/ Helldr/ ⁊ ef þier segdut þssu Fialle/ tak þig vpp ⁊ fleyg þier i Sioen/ þa munde þ skie. Og allt huad þier bidied/ j Bæn-inne/ ef þier truit þui/ þa munu þier þ odlast.

Marc. 11
Marc. 10
5
Fikiu tried wisnar vpp
6
Kraptur Truarinnar og Bænarinnar

Og sm̄ hn̄ kom i Musterit/ geingu til hn̄s (s hn̄ var at kienna) Prestahofdingiar Olld-ungar

